# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

I. | GIMLI, MAN. september 1893. | 9.



## Rev. Björn Pétrsson.

25. sept. þ. á. lést öldungrinn Rev. Björn Pétrsson, prestr hins únítariska safnaðar Íslendinga í Winnipeg. Hafði verið lasinn áðr um tíma.

Björn sál. Pétrsson var einn af þeim mönnum, sem geta verið ungir í anda, þótt ellin færist yfir þá. Hann var jafnan kátr og fjörugr, hvenær sem maðr hitti hann. En það, sem í vorum augum einkendi hann, var þrek og kjarkr samfara sterkri sannleiksást. Hann var einn af þeim fyrstu mönnum hér, sem í trúmálum lét í ljósi og fylgdi fram skoðunum, andstæðum flokki þeim, er þá réði lögum og lofum meðal Íslendinga. Hann hirti ekki um það, þótt öðrum, jafnvel fornvinum hans, líkaði það miðr, hann hirti ekki um það, þótt hann fengi fyrir það hnútur og hnjátur; hann stóð fast við sannleika þann, sem hann hafði fundið. Hann var eins og klettrinn í hafrótinu, gamli maðrinn, þó að öldurnar skyllu á honum, þó rótaðist hann ekki minstu ögn, þegar brimlöðrið skall á herðum hans, þá brosti hann í kamp, en ekki færðist hann úr stað, heldr horfði brosandi á kvikuna, er hún veltist upp að honum.—Þegar maðr kom að heimsækja hann, þá var eins og létti yfir manni, að heyra hinn síglaða hlátr hans. Hann braut ísinn gamli maðrinn og reisti merki frjálslyndrar trúar meðal Íslendinga. Þökk sé honum fyrir það. Margr landi hans og vinr mun sakna gamla mannsins, og lengi munum vér minnast hans. Ást vor og hjartans óskir skulu fylgja honum yfir á landið ókunna, þar sem hann skoðar nú það, sem hann eygði hér í fjarska. Glaðr og fagnandi rendi hann augunum þangað, vonarfullir og glaðir hugsum vér til að hitta hann þar aftr. Friðr og fögnuðr og blessun drottins veri æ með honum. — —

# Ertu lúþerskrar eða frjálslyndrar trúar?

Síðan fór að bera á hinni frjálslyndu stefnu meðal Íslendinga, hefi ég oft orðið þess áskynja, að menn hafa deilt um það, hvort þeir væru lúþerskrar trúar eða ekki. Menn, sem ómögulega hafa getað trúað eilífri fyrirdæmingu og öllum þeim ósköpum, sem henni fylgja, menn, sem var jafnómögulegt að taúa því, að Guð hefði boðið Gyðingum að drepa og myrða saklausa menn, konur og brjóstmylkinga, eins og að trúa því, að sólin væri svört, menn, sem gjör-samlega hafa neitað því, að ritningin væri innblásin af Guði, þeir hafa þó haldið því fram, að þeir væru lúþerskir: en það er röng skoðun, þeir eru langt frá að veaa það, og geta ekki gengíð undir því nafni og þeir rétttrúnaðar postular, hvort heldr það eru lærðir eða leikmenn, sem fá þá til að vera í flokki sínum, þeir ginna þá og gabba, þeir fleka þá, því að lúþerskan er bygð á kreddum (dogmum), trúarsetningum, sem kirkjuþing og klerkar hafa slegið föstum sem óbifanlegum eilífum sannleika, hún er bygð á innblæstri ritningarinnar. Menn geta ekki hugsað sér lúþersku án eilífrar fyrirdæmingar. Þetta eru hornsteinar hinnar lúþersku trúar; ef einhver þeirra er í burtu tekinn, þá er byggingin öll hrunin, hún getr þá ekki staðist. Það er því í mínum augum óheiðarlegt, að telja mönnum trú um, að þeir geti verið í lúþerskum flokki, ef þeir kasta burtu einhverjum þessum hornsteinum, slíkt er að bera í munni sér lygaanda, að ginna menn til að styðja og styrkja það málefni, eða þær stofnanir, sem maðr í hjarta sínu er sannfærðr um, að eru rangar. Það er varla von, að alþýðumenn, sem eru önnum kafnir í daglegum störfum og stríði fyrir lífinu, hafi tíma eða sinnu á, að rekja hugsanfræðislega alt samband hverra einstakra trúarstaða og afleiðingar þær, sem neitun eins eðr annars atriðis hefir á alla trúarheildina, og þessvegna kenni ég þetta forkólfunum, sem oftlega á samviskulausan hátt ginna menn og fleka, til þess að geta haft not af dollurunnm og centunum þeirra, og brúka þessa dollara og cent, er þeir narra frá þeim, sem vopn á móti sjálfum þeim.

Ég ætla nú að týna til nokkur atriði, sem allr þorri Íslendinga er búinn að sleppa úr trú sinni, en sem lúþerska trúin ekki má án vera og getr ekki heitið lúþersk trú, ef hún sleppir. Eitt af atriðum þessum er *eilíf fyrirdæming*. Hún er svo óaðskiljanleg frá

hinni lúþersku trú, að siðbótahöfundarnir lúþersku þeir hafa í 17. grein Augsborgarjátningarinnar fyrirdæmt alla þá, er ekki vilja trúa henni, þar sem þeir segja: „Vér fyrirdæmum endrskírendr, sem kenna að endir muni verða á hegningu fyrirdæmdra“ og í 2. grein Augsb.j. segir: „Söfnuðir vorir kenna, að syndin dæmi seka og steypi í *eilífa glötun* öllum þeim, sem ekki endrfæðast fyrir skírn og heilagan anda“. Það þarf því ekki að kalla saman neitt kirkjuþing, evangeliskt lúþerskt, íslenskt, til þess að fyrirdæma þá, sem ómögulega geta trúað eil. fyrirdæmingu, því einmitt meginatriði, hornsteinar trúar þeirrar, sem þeir trúa, fyrirdæma þá; trúin sjálf, er þeir byggja á alla sína von um eilífa sáluhjálp, hún dæmir þá, steypir þeim i eilífar, brennandi vítispíslir. Ég vil biðja menn að athuga þetta, þá sem ekki hafa gert það áðr, það er sannarlega þess vert.—Nú geta allir séð, sem augun hafa opin, að meginhluti íbúa heimsins er ekki kristinn, hafa aldrei verið skírðir, 900 milliónir manna eða meira eru því sjálfsagðar í hið logandi bál; svo kemr hitt skilyrðið, að þeir eru dæmdir í eilífa glötun, sem ekki eru endrfæddir, en eru það nú margir, sem geta sagt um sjálfa sig, að þeir séu endrfæddir? Mér þætti ósköp gaman að sjá þá menn, og ég veit, að fleiri en ég, mundu verða forvitnir að sjá þá.

Þá er heldr enginn sá lúþerskrar trúar, sem trúir því, að ungbörn þau fari vel, sem deyja áðr en þau hljóta skírn. Í Augsborgarjátn. er sáluhjálpin skilyrðislaust við skírnina bundin sjá 2. gr., þar er engin undantekning, þar sem því nokkrir klerkar þeir, sem hryllir við þessum ósköpum, eru að reyna að draga úr því, þá er það ekki nema hártogun og útúrsnúningr, þeir eru að reyna að villa sjónir fyrir mönnum, til þess að lúþerskan hrindi þeim ekki fra sér, þeir fara þar með fals, og til þess að geta það, þá bera þeir fyrir sig orð Krists þessi alkunnu: „Leyfið börnunum“ etc. Trúarsetningin, að enginn verði sáluhólpinn án skírnar, stendr eins fyrir það, þótt Kristr hafi sagt þessi orð. Það sanna í þessu er, að orð Krists fara með sannleikann, en trúarsetningin er röng. En nú eru bæði ótal kristnir feðr og mæðr, sem misst hafa börn sín, þegar eftir fæðinguna áðr en þau voru skírð, er þá móðirin skyldug að trúa því, að barnið sitt unga, saklausa fari í vítiskvalir og brenni þar að eilífu? Ef að móðir eða faðir þess barns með réttu vilji lúþersk heita, þá eru þau skyldug að trúa því, þar er ekkert undanfæri. Barnið var ekki skírt, en allir þeir skulu í eilífa glötun, sem ekki skírast sjá Augsb.j. 9. gr.

Þá er annað atriði, sem varasamt er fyrir lúþerska menn að trúa, en það er það, að þeir geti verið Guði velþóknanlegir og sáluhólpnir orðið fyrir það, að *breyta vel*. Allr þorri manna mun hugsa á þá leið, að þeir geti gjört sannarlega góðverk, þótt þeir rígbindi sig ekki við kenningar og kreddur kirkjunnar, góðverkið á að bera sín verðlaun í sjálfu sér, ef það er unnið af góðum hug, án tillits til þess, hvaða skoðanir maðr sá hefir, er vinnur það. Ef einn breytir réttilega, svo vel sem hann hefir vit á og honum er mögulegt, þá er það ætlan als fjöldans, að Guð líti á það með velþóknun og að hann muni launa það í öðru lífi. Vér skulum taka eitt dæmi því til skýringar. Það er hús að brenna í þorpi einu; eldrinn hefir gripið svo um sig, að logarnir teygjast út um glugga og gættir, inni fyrir sýnist alt vera reykr og bál, mannfjöldinn stendr höggdofa úti fyrir og horfir á brunann og bíðr þess, að þá og þá falli þakið og húsið hrynji saman, flestir íbúarnir hafa bjargast út úr eldinum, meira og minna naktir sumir brendir og meiddir, sumir meðvitundarlausir; þá raknar móðir ein hálfklædd við úr öngviti; hafði verið borin meðvitundarlaus út úr húsinu; hún lítr í kring um sig eins og hana vanti eitthvað, með veikri röddu spyr hún: „Hvar er barnið mitt?“ Enginn svarar. „Hvar er barnið mitt?“ endrtekr hún í sterkari róm. Það er eins og lífsmagnið streymi um hana alla, hún rís upp, með angistarfullri veinandi röddu hrópar hún: Ó! hvar er barnið mitt? fáið mér barnið mitt!“ Angistarsvitinn stekkur af enni henni, og í ofboði og dauðans angist hrópar hún grátandi og veinandi á barnið sitt. Það hafði orðið eftir í einu herberginu. Enginn þorir upp, því loginn sendist út um þakið hér og hvar, það er að ganga í opinn dauðann, að sækja það. Nei, einn ókunnr maðr stekkr upp stigann, upp að glugganum og inn um hann, hann þýtr úr einu herbergi í annað, þar til hann finnr barnið, vefr utanum það ábreiðum og leitar svo til stigans. Múgrinn er allr milli vonar og ótta, hvort hann komist ofan, þakið er farið að hrynja, logarnir senda eldrauðum tungunum út um gluggana og veggina hér og hvar, hann kemst í stigann með hárið brunnið, fötin hér og hvar logandi; ofan stigann hleypr hann í ofboði; nú er húsið að hrynja, bjálkar og raftar sendast á hann, en ofan kemst hann með veikum burðum. Móðirin stendr þar með opna arma; hún tekr á móti barninu sínu elskaða, það er lifandi. Guði sé lof! hún grætr gleðitárum og biðr Guð að launa lífgjafa

þess; en hann hefir lagt líf sitt í sölurnar til að frelsa barnið; við fætr móðurinnar hnígr hann dauðr niðr. Þetta er nú alt ljómandi gott, hafi hann rétttrúaðr verið, þá stekkr hann undir eins inn í himnaríkis-dýrð, en hafi það ekki verið, hvað þá? Hafi það nú verið únítari, sem neitar eilífu víti, djöflinum, guðdómi Krists, ef hann trúir því, að Kristr hafi verið maðr, þótt hann játi að hann hafi verið guðdómlegr maðr, sem hafi sýnt oss veginn til Guðs, þótt hann játi að hann sé vegrinn sannleikrinn og lífið, ef hann að eins ekki stendr fast á því, að hann sé Guð; já, þá á hann engin laun skilið fyrir það, þótt hann léti lífið við þetta góðverk sitt, hann verðr samt að fara í víti, því það er *trúin* sem gjörir menn sáluhólpna, en ekki verkin. En nú vantar hann þessa sáluhjálplegu trú, hún er ekki til í honum; en aftr á móti trúir hann öfugt við kenning kirkjunnar hann trúir því, að aðalatriði allrar guðsdýrkunar sé innifalið í góðum verkum, innifalið í því, að breyta eftir Kristi, sem manni, en ekki Guði. Hvað á nú eð gjöra við hann þennan mann? Á að steypa honum niðr í víti, eða hvað ? Allir þeir sem lúþerskir vilja heita þeir hljóta að fyrirdæma hann, hann vantar þina sáluhjálplegu trú og án hennar geta engin góðverk átt sér stað. Sama hefði verið, ef að þetta hefði verið heiðingi, einhver Kínverji, sem aldrei hefði heyrt um Krist getið, átti hann nokkur laun skilið fyrir að leggja lífið í sölurnar, þegar trúna vantaði, þegar hann var hvorki skírðr né endrfæddr, sjá Augsb.j. ? Guðfræðingarnir vinda vandlega trúna og verkin saman í alveg óleysanlegan hnút, sem hvergi finst upphaf né endir á; en hér í þessu tilfelli er ekki að tala um neina trú, heldr góðverkið sjálft; að gefa líf sitt út fyrir aðra, eins og Kristr gerði. Getr nokkr maðr neitað því, að þesskonar verk séu Guði velþóknanleg ? En þeir menn, sem játa það, þeir eru þá ekki lúþerskir lengr.

(Framhald næst.)

---

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.

(1) *Mótsagnir.* Ritningin hefir inni að halda ákaflega mikið af

sláandi mótsögnum, sem hverjum ætti að liggja í augum uppi, sem nokkuð kynnir sér þessa fornu bók. Eru þær mörg hundruð að tölu, ef ekki í þúsundatali, ef vel er leitað, og vil ég að eins geta nokkura:

Ef vér berum saman II. Samúels bók 24, I. við I, Kronikubók 21 I., þá sjáum vér, að þar er sagt frá hinum sama atburði á báðum stöðum, frá því, er Davíð konungr lét telja Ísrael. Á öðrum staðnum er það sagt, að drottinn Guð hafi komið Davíð til þess, að láta telja fólkið, en á öðrum staðnum er djöfullinn látinn koma Davíð til að telja. En nú sér hver maðr, að annaðhvort hlýtr að vera rangt, nema menn vilji halda því fram, að Guð og djöfullinn séu sama persóna og vona ég, að fáir séu svo ósvífnir.

Þá vil ég enn telja jafnhliða nokkr dæmi:

| | |
|---|---|
| Og hjarta Davíðs ásakaði hann, er hann hafði talið fólkið; og Davíð sagði við Drottinn: Mikil er sú synd, er eg hefi drýgt.<br>II. Sam. 24, 10. | Af því Davíð hafði gjört það sem rétt var í augsýn Drottins og ekki vikið frá neinu, sem Drottinn hafði honum boðið meðan hann lifði, nema að því, er snertir Hetítann Úría.<br>I. Kon. 15. 5. |

Á öðrum þessum stað játar Davíð sjálfr, að hann hafi mikillega syndgað á móti drottni, en á hinum er það sagt, að hann hafi aldrei syndgað, nema rétt í það eina skifti, er hann réði Úría bana, til þess að geta náð Betsebu konu hans, og var þó þessi guðsmaðr sannarlega ekki konulaus fyrir.

Í fyrri Kronikubók 20. kap. 1—3. v. er sagt frá því er Jóab tók borgina Rabba. Í 3. v. stendr: „Og hann (Davíð) leiddi út fólkið, sem þar var inni og lét sníða það sundr með sögum og með járnherfum og með öxum. Og svo gjörði Davíð við allar borgir Ammonssona". En í Kon. 15. 5. er sagt að hann hafi ekki vikið frá neinu sem dr. hafði honum boðið nema í þetta eina skifti, er hann réð Úría bana. Hvernig getr þetta komið heim? Er nokkr svo ósvífinn og grimmúðigr að segja það, að drottinn hafi boðið Davíð, að drepa og myrða? Þeir, sem geta verið svo heiftarfullir í huga sínum, að hugsa sér, að bera slíkt og þvílíkt fram, þeir mundu vissulega ekki vera langt frá því, að vinna hin sömu verk, ef svo bæri undir. Nei! ræningjaforinginn, munaðarseggrinn, hinn grimmi og heiftrækni Davíð konungr, sem á banabeðinum bauð Salómon syni sínum það seinast, að muna sig um það, að myrða dyggan og trúan þjón sínn, Jóab,

er unnið hefði fyrir hann margt illverkið, hann ver sannarlega alt öðruvísi, en svo, að hann viki ekki frá neinu, sem drottinn hafði boðið honum; það væri mesta hneyksli að segja annað. En öll saga Davíðs, þessarar þjóðhetju Gyðinga, mannsins, sem þeir sögðu, að væri eftir Guðs hjarta, hún sýnir svo glögglega, hvílíkar hugmyndir Gyðingar höfðu um Guð, þær voru nú ekki hærri en svo, að þeir álitu og trúðu því, að þessi maðr væri Guði velþóknanlegr, og þetta átti að vera forfaðir Krists; þetta er ein hetja rétttrúnaðarins, því allir þeir, sem halda vilja fram innblæstri ritningarinnar, þeir verða að taka það alt gilt og gott og Guði þóknanlegt, sem Davíð gjörði.

Þá skulum vér bera saman:

Eftir þessa atburði freistaði Guð Abrahams.
I. Mós. 22. 1.
Eigi leið þú oss í freistni.
Matth. 6. 13.

Enginn, sem freistast segi: Eg freistast af Guði, því Guð freistast ekki af hinu illa, en hann sjálfr freistar og einskis.
Jakobs pistill 1. 13.

Þessar mótsagnir hefir rétttrúnaðrinn oft verið að glíma við, og reynt að skýra þær, svo að þær hvyrfi, þeir hafa sagt, að í fyrstu bók Mós. þýði: „að freista", ekki að freista, heldr að reyna trú eins. En ef vér breytum þýðingu orðsins á einum staðnum, þá verðum vér einnig að breyta henni á hinum; en þó að vér gjörum nú þetta, þá er mótsögnin eins eftir, sem áðr, eða ef vér vildum nú gefa það eftir, sem þó er rangt; að í 1. Mós. 22, 1. þýði orðið „freista" ekki að freista, hvað á það þá að þýða hjá Matt. Hvernig, sem vér snúum því, þá stendr þó missögnin þessi, að Guð *freistar* manna, og *freistar ekki*.

Þá er enn:

Jörðin stendr eilíflega.
Préd. Salóm. I. 4.
Hann festi jörðina á hennnar grundvelli, svo hún fer ei úr skorð um að eilífu.
Salm. 104, 51.

En dagr drottins mun koma sem þjófr á nóttu, þá munu himnarnir með miklum gný líða undir lok, frumefnin af eldi sundrleysast, og jörðin og þau verk, sem á henni eru uppbrenna.

Þá sá eg mikið hásæti hvítt og þann, sem á því sat, en fyrir sjón hans hvarf himin og jörð, svo engar eftirstöðvar vóru.
Opinb. 20. 2.

Hér segir á einum staðnum, að jörðin fari ei úr skorðnm að ei-

lífu, á öðrum að hún muni uppbrenna, og á hinum þriðja, að hún hverfi, svo engar eftirstöðvar verði. Hver er nú svo mikill snillingr, að geta komið þessu saman.

Eða þessu:

Og Elía fór í stormviðrinu upp til himins.

II. Kon. 2. 11.

Enginn hefir stígið upp til himins, nema sá, sem niðr sté af himni, Mannsins Sonr, sem er á himni.

Jóh. 3. 13.

Eða þessu:

Hver sem af Guði er getinn drýgir ekki synd. ....hann getr ekki syndgað, því að hann er af Guði getinn.

I. Jóh. 3. 9.

Enginn maðr er sá, sem ekki syndgi.

I. Kon. 8, 86.

Þó er ekki einn maðr réttlátr á jörðunni, sem giöri gott og syndgi ekki.

Préd. 8. 20.

Eða þessu:

Hefir þú ekki heyrt að Drottinn hinn eilífi Guð, er skapað hefir endimörk jarðarinnar, hann þreyt ist ekki, hann vanmegnast ekki.

Eg er þreyttr orðinn á að miskuna. Jer. 15. 6.

—Á sex dögum skóp Drottinn himinn og jörð, en lét af og hvíldist á hinum sjöunda degi,

II. Mós. 31. 17.

Eða þessu:

Drottins auga eru allstaðar, þau sjá illa og góða.

Orðskv. 15. 3.

Enginn dimma og enginn dauð ans skuggi er til, sem þeir, er rangt að hafast geti falið sig fyr ir honum, því hans augu eru yfir mannanna vegum og öll þeirra spor sér hann.

Job 34, 22. og 21.

—Adam og kona hans fólu sig fyrir augum Guðs Drottins á milli trjánna í aldingarðinum, og Guð Drottinn kallaði á manninn og sagði: Hvar ertu ?

I. Mós, 3. 8. og 9. v.

Eða þessu:

Og Davíð vann af honum 17 *hundruð* reiðmenn og 20 þúsund fótgönguliðs.

II. Sam. 8, 4.

Og Davíð tók af honum 10 vagna og 7 *þúsund reiðmenn* og 20 þúsund fótgönguliðs.

I. Kron. 18, 4.

Hér er verið að segja frá hinum sama atburði á báðum stöðum.

Förunautar hans stóðu eins og höggdofa, því þeir *heyrðu raustina*, en sáu engan.

Post. Gjörn. 9, 7.

Mennirnir, sem með mér voru sáu ljósið og urðu felmtsfullir, en raust þess, er við mig talaðaði *heyrðu þeir ekki*.

Post. Gjörn. 22, 9.

Eða þessu :

Og Jakob nefndi þennan stað Pniel (Guðs auglit), því *séð hefi eg Guð* bersýnilega.

I. Mós. 32, 30.

Enginn hefir no kkurn tíma *Guð séð*,

I. Jóh. 4, 12.

Eða þessu :

Því eg Drottinn, em *óumbreytanlegr*.

Mal. 3, 6.

Hjá föðr ljósanna er hvorki *umbreyting* né *umbreytingarskuggi*

Jak. I. 17.

En er Guð sá breytni þeirra, að þeir létu af sínu vonda athæfi, *þá lét Guð hjá líða* þá hegningu er hann hafði hótað þeim og *lét hana ekki* fram koma.

Jónas 3, 10.

Drottinn *iðraðist* þess, að hann hafði skapað manninn á jörðunni og honum sárnaði það í hjarta sínu.

I. Mós. 6, 6.

(Miklu fleiri staðir eru til, þar sem Guð er látinn iðrast verka sinna eða breyta áformum sínum).

Eða þessu :

Því ekki er manngreinarálit hjá Guði.

Róm. II. 11.

—Jakob elskaði eg, en Esaú hataði eg.

Róm. 9, 13.

Þá eru og fjölda margar mótsagnir í frásögunum um æfi Jésú Krists. Fyrst er það, er snertir bernsku Krists, að samkvæmt Lúkasar guðspj. er hann fæddr í Betlehem og þaðan (sjá Lúk. I. 22.) tóku foreldrar hans hann og fóru með hann til musterins og þaðan heim aftr í Galileu til borgar sinnar Nazaret. Síðan fóru þau á *ári hverju* upp til Jerúsalem á páskahátíðinni (Lúk. 2, 4. Þetta er saga Lúkasar um bernsku Krists frá því hann fæddist og til þess hann var 12 ára gamall.—En ef vér gætum að hvað Matth. guðspjallamaðr segir um þenna hluta af æfi Krists, þá finnum vér þar (Matt.2., kap.) alt aðra frásögu. Matt. segir oss, að þegar er Kristr fæddist og vitringarnir höfðu heimsótt hann, þá tóku foreldrar hans hann og fóru með hann, ekki heim aftr til Nazaret, eins og Lúkas segir, heldr til Egyftalands. Til Nazaret fóru þau ekki fyr en þau vóru búin að vera í Egyftalandi og Archelaus sonr og eftirmaðr Heródesar var dáinn. Hvernig getr nú þessu borið saman.

Þá eru og ókleifir örðugleikar að samrýma ættartölur Krists hjá þeim Matt. og Lúk. Báðar þessar ættartölur rekja ætt Krists gegn um Jósep. En þegar þeir eru búnir að því, þá neita þeir því báðir

að Jósep hafi verið faðir Krists. Þeir bera það fram að Kristr sé kominn af Davíð, af þeirri ástæðu, að maðr sá, sem *ekki* var faðir hans, hafi verið kominn af Davíð, og er þetta hin undarlegasta ættleiðsla. En svo segir Matt. að fjórtán ættliðir séu frá Abraham til Davíðs, frá Davíð til herlaiðingarinnar 14 og frá herleiðingunni til Krists 14; en ef vér förum nú og teljum liðina eins og Matt. telr þá upp, þá eru ekki nema 13 liðir frá Abraham til Davíðs og frá her leiðingunni til Krists 13. Enn fremr hrekja ættartölur Jóseps, eiginmanns Maríu, hver aðra, þar sem að eins 15 nöfn eru hin sömu í þeim báðum, en 40 mismunandi, auk þessa eru þær kallaðar ættartölur Krists, en það geta þær ekki kallast, nema Kristr sé sonr Jóseps. En í liðunum frá Davíð til Krists eru að eins 2 nöfn hin sömu í báðum ættartölunum, Jósefs og Davíðs. Þegar nú þess er gætt að ættir þessar eru raktar í karllegg frá syni til föðr, afa og langafa, þá sjáum vér, að í báðum ættartölunum ættu að vera hin sömu nöfn, að öðrum kosti geta þær ekki verið réttar. Sumir hafa í vandræðum þessum getið þess til, að þetta væru ættartölur Maríu, en fyrir því er ekki hin minsta ástæða, að eins er það einn af hinum vanalegu vafningum innblástrsmanna, er þeir ekki hafa hinn minsta fót fyrir.

Ef vér förum nú að skoða starfstíma Krists, þá kemr margt fyrir, sem ekki er hægt að rýma saman. Í hinum þeim fyrri guðspjöllunum er Kristr látinn fara út í eyðimörkina *undir eins* eftir skírnina, en Jóhannes guðspjallamaðr segir oss, að á hinum 3. degi eftir skírnina sé Kristr í brúðkaupinu í Kana norðr í Galileu, en minnist ekki með einu orði á eyðimörk eða freisting. Nú sér hver maðr, sem nokkuð hirðir um að opna augun, að báðar þessar frásögur geta ekki verið sama, nema þá að Kristr hafi getað verið á tveim stöðum í einu, á heimili sínu norðr í Galileu og sunnan til við Gyðingaland í eyðimörkinni, en þar eru margar dagleiðir á milli.

Yfirskriftin á krossinum er og mismunandi hjá *öllum* guðspjallamönnunum. Matt. segir hún hafi verið þannig: „Þetta er Jesús konungr Gyðinga“ Matt. 27, 37.
Markús, 15. 26.: „Konungr Gyðinga“.
Lúkas, 23, 38.: „Þessi er konungr Gyðinga“.
Jóhannes, 19, 19.: „Jesús frá Nazaret konungr Gyðinganna“.

Nú sér hver maðr, að aðeins ein af þessum yfirskriftum getr verið rétt, hinar hljóta að vara rangar. En vilji menn aftr fara eftir Lúk. sem ekki var sjónarvottr og hefir farið eftir sögusögn annara, og segja, að með því að orð þessi voru rituð á 3 tungumálum, he-

bresku; grísku og latínu, þé sé þessi orðamunr mjög skiljanlegr, þá er þó ekki hægt að gjöra grein fyrir fleirum en 3 útgáfunum. 4. lesmátinn hlýtr þá að vera rangr, því tungumálin vóru ekki nema 3. Og það eitt er nóg, til að sýna villuna hjá hinum heilögu mönnum.

Þá er enn eitt. Postulinn Páll segir oss, í I. Kor. 15, 5., að Kristr hafi verið séðr af hinum 12 postulum eftir upprisu sína. En nú vitum vér að engir 12 postular veru *til* þá, svo að þeir gætu séð hann. Júdas hengdi sig og 12. postulinn Matthías var ekki kosinn til að vera postuli fyr, en eftir uppstigning Krists.

Enn eru átakanlegar mótsagnir í frásögunni um upprisuna og um viðburði þá, er skeðu milli upprisunnar og uppstigningarinnar. En ég sleppi því, eins og öllum fjöldanum af mótsögnum yfir höfuð, bæði í gamla og nýja Testam., og þó að mönnum kunni að finnast ég gera mikið úr þessum mótsögnum, þá er Það sannarlega svo, að ég hefi að eins tekið örlítinn hluta af mótsögnum þeim, sem til eru; rúmið leyfir ekki að týna þær allar til.

Vanalega furðar menn það mikið og harma það, hve margir skuli vera trúflokkarnir í kristinni kirkju. Hvernig stendr á því spyrja menn, að menn skuli ausa af hinum sama brunni, ritningunni, kenningar sínar og trúarjátningar, og þær skuli vera svona margar, þessar játningar, og hver annari andvígar, þar sem allar eru þó bygðar á hinni sömu bók? Yfir höfuð ætla menn að ráðgáta þessi sé óleysanleg, eða menn leita að ráðningunni í blindri sálarsjón manna, í röngum ályktunum, eða spilltu hjarta og hugarfari. En sá tími kemr máske innan skamms, að menn sjá það, að ráðning gátu þessarar er miklu einfaldari og miklu skynsamlegri en þetta. Sú ráðning byggist að miklu leyti á því, að ritningin er ekki ein heild, heldr sextíu og sex heildir. Hún er ekki ein heldr sextíu og sex bækr, sem skrifaðar eru sín á hverjum tíma, og sín í hverju landi, af mönnum á mjög misjöfnu mentunarstigi, með misjöfnum trúarskoðunum, og það merkilegasta við það er það, að engum þessara höfunda hefir nokkuru sinni til hugar komið, að bækr þeirra mundu verða teknar inn í þessa heilögu og innblásnu heild.

Vér þekkjum vel hina vanalegu mótbáru, sem rétttrúaðir menn koma með gagnvart þessum mótsögnum ritningarinnar, en hún er sú, að þetta sé fundið upp af trúleysingjum! að þetta sé jafngamalt kristninni, að því sé þúsundsinnum búið að svara. En hið sanna er, að þetta er ekki fundið upp af trúleysingjum eða neinum

öðrum. Það er svona, hvorki trúleysingi eða nokkur annar getr fundið þetta upp, eða lagað það í hendi sér, því þetta stendr í ritningunni, brunni þeim, sem rétttrúaðir ausa af játningar sínar og trú. Og sannalega er það jafngamalt kristninni. Nákvæmir og réttsýnir menn, sem rannsakað hafa ritninguna um allar aldir, hafa fundið þessar mótsagnir í henni, og hafa jafnan fundið því fleiri, sem þeir hafa rannsakað betr, og hvað það snertir, að þeim hafi verið svarað ótal sinnum, þá má það vel vera, en þess ber líka að gæta, að þeim hefir aldrei verið hrundið.—Það var einu sinni eigi als fyrir löngu, að háttstandandi maðr á Englandi var giftr konum tveimr í senn. En er það fór að verða hljóðbært, þá fóru menn að tala um þetta sín á milli og sögðu þá sumir, að ekki þyrfti annað, en að fá Gladstone gamla til þess, að útskýra hana svo hún hvyrfi (explain her away) þegar málið kæmi fyrir réttinn.—En þó að Gladstone gamli kæmi til, þá mundi honum ekki takast að skýra þessar mótsagnir, svo þær hverfi.

(Framhald síðar.)

---

# Athuganir við sköpunarsöguna.

(Framhald.)

## VIII.

### *LOFTIÐ.*

Eftir að efnin voru orðin blönduð saman og krystalliseruð, eftir að þurrlendið var myndað og vötnunum safnað í sjóinn var heilmikið eftir af nitrogen og öðrum lofttegundum fast utanum jörðina, sem gufuhvolf. Vér höfum þegar séð, hvernig biflíusagan fer með festinguna, þak jarðarinnar, er hún lætr halda vötnunum uppi, en hengir neðan á það sól og stjörnur allar. Þetta gamla þak eða rjáfr hverfr sjónum vorum og verðr að óendanlegu rúmi, en lamparnir að sólum. En þetta þunna lofthjúp utan um jörðina er að svo mörgu leiti áþekt þaki, að vér skulum halda líkingunum og tala um festingu himinsins.

Oss virðist loftið vera ekki neitt; vér getum varla fundið það og als ekki séð það. En þó er það eins verulegt, og hvert annað þak. Prófessórinn getr vegið það ;þegar það hreifist ýtir það skipun-

um áfram; í fellibyljunum mölbrýtr það hin sterkustu þök, sem menn geta smíðað. Langt uppi yfir jörðunni, þar sem það er mörgum sinnum þynnra, heftir það og því nær stöðvar flug loftsteinanna, rétt eins og annað þak, og það er nógu hart viðkomu til þess, að kveikja í þeim með núningnum á skemmri tíma en einu augabragði. Það heldr vötnunum uppi á enn undarlegri hátt, en hinn gamli rithöfundr hefir hugsað sér, Vatnið í loftinu er þynnra, en svo að það sjáist, en þó er það alstaðar, það er meira að segja i loftinu í herbergjum vorum, og vér þurfum ekki annað, en að koma inn með kaldann stein, til þess að sjá vatnið safnast á hann í smáum dropum. Svo er og um jörðina, hún er sem stór steinn og safnar og dregr til sín droppana úr loftinu á hverri nóttu, og er það döggin. Dr. Dalton hefir reiknað það út, að á Englandi fellr svo mikil dögg á einu ári, að það myndi verða 5 þuml. þykt lag af vatni yfir landið, Þetta loftþak heldr sí og æ uppi vatnsmegni miklu í loftkendu efni, Hinir ósýnilegu straumar þess þyrlast um þakið og þjóta yfir löndin skjótara en nokkur hraðlest, eftir ósýnilegum brautum loftsins með vindinn sem hreyfandi afl.

En vötnin eru einnig sýnileg í loftinu. Lítum á skýjamekkina. Veggir þeirra eru rennandi efni, grundvöllrinn er loft, en þó renna þeir áfram í vindinum, eða veltast áfram í loftinu, án þess að leka einum dropa. Þetta loft heldr þeim uppi, eins og hið ímyndaða þak í sögunni gömlu. Ef það ekki væri, mundu þessar smágjörvu þoku kúlur falla til jarðar, stundum með hálfrar mílu hraða á sekúndunni. Þær eru einlægt að leitast við að falla, en loftið stendr á móti, svo og svo mikið. eftir því sem þær eru stórar. Vatnsdropi, sem er einn þúsundasti partr úr þuml. mundi að eins falla 2 þuml. á sekúndunni í kyrru lofti. Jafnvel dropar, sem eru ¼ hluti úr þuml. að þvermáli, þeir gætu að eins fallið 34 fet á sekúndunni. Sannarlega heldr loftið vatnsmagninu uppi, sem þak eitt, það heftir regndropana og heldr aftr haglsteinunum, sem án þess mundu deyða oss sem blýkúla.

Að mörgu öðru leyti líkist loftið þaki, þó að það sé svo þunnt og hreint, að það þessi fimmtíu mílna þykt þess virðist engu skýla'. þá skýlir það oss þó fyrir sólunni á daginn, það veldr fegrð kvelds og morguns. Ef það ekki væri, mundi sólarljósið gjöra oss blinda, hver skuggi mundi vera kolsvartr, og dagr og nótt skiftast á á svipstundu. En fyrir geislabrotið og aftrkastið dreifir loftið ljósinu eins og póleráð gler og hangir yfir jörðunni sem sólhlíf, það breytir hinu gló-

andi skini sólar í hina hóglegu dagsbirtu og lengir daginn með rökkrinu. Það uppleysir ljósið og dreifir kvöldroðanum yfir skýjarjáfrin, það málar skýjamekkina allavega litum, síhvarflandi, dýrðlegum purpura- og gullslitum eins og dómkirkju hvelfing.

Miklu betr, en nokkur dómkirkju-hvelfing og safnar það hljóðinu og beinir söngnum leið að eyrum vorum. Ef loftið væri tekið úr kirkjunni, mundi söngrinn ekki heyrast. Þakið hjálpar til, en loftið veldr hljómnum. Ef þetta loftþak væri ekki, mundi drun sjávarins, söngr fuglanna og raddir manna aldrei heyrast, jörðin öll yrði þegjandi og hljóðlaus.

Sannarlega er loftið þak, það skyggir á vinnu vora. það er búið dýrðlegu skrauti, svo vér getum fyllst fögnuði og aðdáun. Það er musterishvelfing, sem hvelfist yfir alla jörðina og endrhljómar dag hvern af hinum helga söng lífsins. Hendin skaparans málar það æ að nýju undir hverja morgun og kveld þjónustu.

Loftið veldr og hinum tempraða hita; það dregr úr hádegishita sólar, sem þak væri, og heldr aftr hita dagsins og dregr úr kulda nætrinnar. Vér þurfum ekki annað, en að fara upp á eitthvert fjallið eða stíga til lofts í einhverjum loftbátnum, og förum vér þá út fyrir aðalþakið, og er vér finnum frostið og kuldann í loftinu, þá sjáum vér, hvort það hafi ekki hitað oss; það leggst sem voðfeldr mikill svo notalega utan um jörðina, og án þessa feldar myndu tjarnir og pollar því nær sjóða um hádaginn, en frjósa hverja sumarnótt.

En loftþak þetta hitar oss á enn undraverðari hátt, heldr en með því, að halda í sér sólarhitanum, það býr til hita. Ef ekki væri loftið mundi allr eldr slokkna og ekki vera hægt að kveikja hann upp aftr. Vér köllum við og kol eldsneyti, en miklu sannara er þó, að kalla loftið það, því vér brennum því dags daglega. Vér opnum sogholurnar á stónum, til þess að ná meiru lofti til eldsins. Á lampana, húsin, verksmiðjurnar, setjum vér reykháfa, svo að loftið streymi hraðara að eldinum. Járnsmiðrinn blæs smiðjubelginn með hendi sinni, og bræðsluofnarnir hafa vélar með þúsund hesta afli til að blása, svo að eldrinn fái nógu mikið loft. Þetta loft virðist því vera hið sanna eldsneyti, sem hitar hús vor og hreyfir verksmiðjur vorar.

Það hitar líkami vora og er starfandi í oss á sama hátt. Andar-

dráttrinn er ekki annað en bruni eftir því, sem læknarnir segja, er leiðir fram hita og kraft innan í manninum, eins og eldrinn hið ytra. Lungun eru belgr til þess að halda súgnum við. Andardráttr inn brennir oss í sífellu. Ef vér höfum loft, þá getum vér haldið oss heitum og starfað: en höfum vér það ekki, þá verðum vér kaldir og deyjum út eins og eldrinn í stónni.

Og eldiviðrinn sjálfr hann kemr úr loftinu, Hann er leifar af samansetningu og endrbótum hins gamla þaks. Hið upprunalega gufuhvolf var óhentugt þak fyrir dýralifið. Það var fult af deyðandi kolasýrum og þar gat eldrinn ekki logað og skepnurnar ekki andað. En hinn mikli plöntuvöxtr á kolatímanum saug smátt og smátt í sig sýru þessa, leysti hana upp og hlóð saman kolaefnunum í kolalögum vorum. Þetta gjörði nú tvent, fyrst hreinsaði það loftið og hlóð upp eldsneytum, og svo fengum vér fyrir það eldinn, til að geta brent þessum kolum, því hið annað efni úr hinni uppleystu kolsýru—súrefnið, sem trén létu frá sér, það er sá hluti loftsins, sem brunanum veldr. Súrefnið eitt mundi gjöra of mikinn eld, það brennir stálvírinn sem þráðarspotta. En nú blandast það við nitrogen, sem er ferfalt fyrirferðar meira, en súrefnið og þyntist þannig, uns það varð hæfilegt fyrir núlifandi menn og skepnur.

Svo undarleg hefir verið bygging þessa loftþaks. Um tugi eða hundrað þúsundir ára hefir það verið að breytast og endrbætast, úrkastið hefir verið geymt, sem eldsneyti, og styrkleika sinn hefir það af plöntunum og þó er það miklu smágjörðara, en hið smágjörðasta léreft. Í gegn um hina grófu nitrogen uppistöðu er alsstaðar ofið þessu undarlega oxygen ívafi; hvorutveggja er ósýnilegt, en án þessarar voðar gæti eldrinn eða maðrinn ekki lifað augnablikinu lengr. Og þetta þak, eða þessi voð, hún gjörir meira, en að verma og skýla, því hún brennir í sífellu, til að kveikja hita og líf í mönnum, skepnum og grösum.

Þessi sköpun heldr einlægt áfram. Vötnin liftast sí og æ upp á festinguna. Og hversu er ekki afl það mikið, er til þess þarf? Oss er sagt, að eigi að gjöra að gufu regn það, er fellr í Bandaríkjunum einn tíunda hluta úr þuml. á þykt, þá þurfi til þess meira afl, en allar gufuvélar í New York, Philadelphia og Chicago geta framleitt, þó þær gengu dag og nótt í heila öld. Þessu vatni er ekki einungis lyft upp frá jörðu, heldr er það hreinsað, síað, destillerað, rétt eins og það væri skapað að nýju. Þakið byggir sig einlægt upp að nýju, eldrinn og andardráttrinn brennir því í sífellu, og það sem verra er, býr einlægt til hina deyðandi kolsýru. En trén eru og

stöðugt að vinna, sem skapandi verkfæri, og bæta tjónið. Hinir sístarfandi fingr þeirra sína haglega hið ósýnilega eitr úr loftinu. Með enn meiri hagleik skifta þeir hverri smáögn, sem deyðir, í tvær, sem lífga, og breyta kolaefninu í eldivið og fæðu, en súrefninu í eld og andardrátt. Þeir búa til timbr fyrir húsþök vor og endrbæta þetta þak jarðar, sem hlífir oss sí og æ, eins og á hinum öðrum degi, er heimsandinn starfandi að þenja út þessa dásamlegu festingu, til að skyggja á og hlífa oss á daginn, til að verma og skýla oss á nóttunni, til að kveikja himneskan eld, svo vér getum hitað hýbýli vor á vetrum, svo að lífið geti runnið um líkama manna, dýra og grasa.

(Framhald síðar).

---

LEIÐRÉTTING. Í Ágúst-hefti „Dbr.“ í sögunni : „Í frostinu“ hefir misprentast bls. 118, 18. l., afsaka, á að vera ásaka. Bls. 119, 21. l.,...... sem hún bar einmitt af því, og svo af hinu, að þau sneru myrku hliðunum saman, svo henni var það óhætt; á að vera : ...... sem hún bar, einmitt af því, og svo hinu, að þau sneru myrku hliðunum saman, var henni það óhætt;

---



---

Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endursenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

---

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

---

☞ *G. M. Thompson, er „business manager“ og féhirðir fyrir blaðið.*

---

„DAGSBRÚN“ kemr út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vestrheimi; á Íslandi Kr. 2.00, greiðist fyrir fram. Send til Íslands en borguð hér $0.75.——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

---

*Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.*

---

*Prentað hjá G. M. Thompson—Gimli*